WIKIPEDIA

# Tyrkneska

**Tyrkneska** (**Türkçe**, borið fram [tyɾktʃe]) er tyrkískt tungumál og þar af leiðandi eitt af hinum umdeildu altísku tungumálum. Hún er mest töluð í Tyrklandi en einnig af minni hópum á Kýpur, í Grikklandi og Austur-Evrópu, auk þess að vera töluð af nokkrum milljónum innflytjenda í Vestur-Evrópu. Tyrkneska er útbreiddasta tyrkíska málið og 65 – 73 milljón manns hafa málið að móðurmáli. 85 af hundraði íbúa Tyrklands hafa tyrknesku að fyrsta máli en 12 kúrdísku. Eftirliggjandi 3 prósent deilast á um 30 mál sem sum af hverjum eru miljónamál töluð í nágrannalöndunum svo sem armenska eða arabíska en mörg eru smámál á hverfanda hveli og í hættu á að leggjast af. Rætur tungumálsins má rekja til Mið-Asíu, þar sem fyrstu skrifin ná aftur um tæp 1.200 ár. Í vesturátt eru áhrifin aðalega af Ottoman tyrknesku — sem er afsprengi tyrknesku tungunnar og var notuð í Ottoman stórveldinu og breiddist út samhliða því. Tyrkneska hefur verið rituð með latínuletri frá 1928 en var áður rituð með arabísku letri. Nafnorð í tyrknesku hafa sex föll. Enginn tiltekin greinir er í málinu en tiltekni er oft mynduð með notkun þolfalls. Lýsingarorð taka engum beygjingum. Persónufornafn þriðju persónu greinir ekki kyn. Í ritmálinu táknar ufsilon venjulega joð, venjulegt sje (c) 'dj', setillu sje (ç) 'tj', setillu ess 'sj'. U táknar ú og tvípunkts -u (ü) u (líkt og í þýsku). Gje með niðurbendandi ör fyrir ofan (ğ) greinist vart.

| Tyrkneska<br>*Türkçe* | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Tyrklandi, Búlgaríu, Kýpur, Grikklandi, Makedóníu, Kósovó, Rúmeníu, Aserbaídsjan og í innflytjendasamfélögum í Þýskalandi, Frakklandi, Hollandi, Austurríki, Úsbekistan, Bandaríkjunum, Belgíu og Sviss |
| **Heimshluti** | Tyrkland, Kýpur, Balkanskagi og Kákasusfjöll |
| **Fjöldi málhafa** | 75-83 milljónir |
| **Sæti** | 15-16 |
| **Ætt** | Altaískt (umdeilt) |
| | Tyrkískt<br>Suðvesturtyrkískt<br>Vestur Oghuz<br>**tyrkneska** |
| **Opinber staða** | |
| **Opinbert tungumál** | Tyrkland |
| **Stýrt af** | Tyrknesku tungumálasamtökunum |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | `tr` |
| **ISO 639-2** | `tur` |
| **SIL** | TUR |

**ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode.

## Nokkrar setningar og orð

| Türkçe | Íslenska |
|---|---|
| Selam, merhaba | Halló |
| İyi günler | Góðan daginn |
| İyi akşamlar | Gott kvöld |
| Tanıştığıma memnun oldum | Gaman að hitta þig |
| Türkçe konuşuyorum | Ég tala tyrknesku |
| Türkçe/İzlandaca konuşamıyorum | Ég tala ekki tyrknesku/íslensku |
| Evet | Já |
| Hayır | Nei |
| Nasılsınız? (formlegt) | Hvað segirðu gott? |
| Nasılsın? (óformlegt) | Hvað segirðu gott? |
| İyiyim | Ég segi allt gott |
| (Çok) Teşekkür ederim | Takk (fyrir) |
| Adınız nedir? (formlegt) | Hvað heitirðu? |
| Adın ne(-dir)? (óformlegt) | Hvað heitirðu? |
| (Benim) adım ... | Ég heiti ... |
| Hoşçakal | Bless |

# Persónufornöfn í tryknesku

| | **eintala** | | | **fleirtala** | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | **1** | **2** | **3** | **1** | **2** | **3** |
| **nefnifall** | *ben* | *sen* | *o* | *biz* | *siz* | *onlar* |
| **þolfall** | *beni* | *seni* | *onu* | *bizi* | *sizi* | *onları* |
| **þágufall** | *bana* | *sana* | *ona* | *bize* | *size* | *onlara* |
| **staðarfall** | *bende* | *sende* | *onda* | *bizde* | *sizde* | *onlarda* |
| **sviptifall** | *benden* | *senden* | *ondan* | *bizden* | *sizden* | *onlardan* |
| **eignarfall** | *benim* | *senin* | *onun* | *bizim* | *sizin* | *onların* |

 *Þessi tungumálagrein er stubbur. Þú getur hjálpað til með því að bæta við greinina (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Tyrkneska&veaction=edit).*

Sótt frá „https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Tyrkneska&oldid=1513783“

**Þessari síðu var síðast breytt 21. október 2015, klukkan 00:22.**

